# Riimur

af

# Hervøru Angantirsdottur.



Prentader á Hrappsey 1777.

# I. Riima.

Hvad skal þeim við hróður fást, nie hefia mansavng sprundum, sem dæmdur er frá drósar ást og dregenn að elle stundum.

Einnen fieck eg alldrei par af Asa miødnum deigum; furðu lángt eg fiærre var frá Hvítbiargar veigum.

Lenge þegia litt eg kan: lund mín er það eige; so harla vídt minn hugur rann, hraður á nótt sem deige.

Mína túngu milldur geim meistarinn allra landa, að formæle avngvum þeim til yferbótar standa.

Þo hefde eg soddann hróðrar snert, að hrifa nockrum skylde; er sá Sæll sem Illt gat gert, og ecke helldur villde.

Hvert það er flióð eða fleina bør, fram þá renna tíder; af bikar þiem sem birlar hvør bergia mun umsíder.

Akta eg hvorke orð nie verk, andskotans nie þræla: mier hlífer Drottins høndinn sterk hvør sem mig vill fæla.

So skal kasta sorgum burt og sinnes kiæta geinge, að Fiandmenn míner fáe það spurt: fróðu skemte eg meinge.

Hluterner fimm eg heirde sagt hente øllum þióðum og sie til þessa lífsins lagt leiðum eirnen góðum. Andar

Audar bravd eg ei vil tiá eitt med þessu slage hegómanum hef eg þar frá hann er sier i lage.

Tel eg þad fyrsta Lióséd lient lika Dryck og Fæde Jllum, gódum er þad hent einnen Føt og Skiæde.

Hætte vanta þo á eitt þegn og linde bedia ef skyldu ei af Skemtan neitt er Skatna mætte gledia.

Reina Tafl og ríða í Dyst reiknudu marger mæte Hørpu Slátt og hródrar lyst heldu þeir Sælgiæte.

Dægra stitting þinke eg þó þiene øngvu sidur þeim velkiast her, i Sorgá Sió og Sælunne efter bidur.

Héflegt gaman hoskre þiód hamlar verra stundum bøgur minar bid þvi lióð blídu gullblads grundum.

Eingenn er von á ordgnótt min nie annara minna Maka sem alldrei lærde Auduns vin af henne Gunnlod taka.

Valla er líklegt vitsku sneck vilde nockur þiggia ut af gømlum eyde steck eda þeim þar byggia.

Undann tek eg alla þá sem Elská líte læte og bøgurnar lika bióda má blid lundudum í kiæte.

Um fyrre Manna frægd í heim fyrer hef eg þó høndum og stolltar kóngum sterkum þeimsem stiórnudu Nordurløndum

Hvørier

Hvörier sem mig hæda ei níe hvad
mín Túnga mæler blióte glede í hæru
þei og blíde Sigur sæler.
Hárs skal valur hlaupa af mier þó
hann ei fliúga kunne fiadralaus og flyta
sier med feriu máls ad unne.

Rok til Sögunar renna fyrst
rædu máls af blande þar heidna folked
fordum tvíst flude af Kanaans lande.
Utaf Kam þad ættad var einum syne
Nóa illsku sárinn synda þar sumra ei
villdu gróa.
Namlegt máttar Nísa kin reiknadist
þeirra þióda á heimsins frægd þeir hof-
du skin enn hofnudu andar góda.
Kynslód þesse kint var mier kom til
nordur landa tryllder Líder tóku sier
trúnad allra handa.
J þeim löndum avstur frá ost sem
Sogurnar spialla Járnahlinar Jarddeild
þá Javtunheima kalla.
Nordur um Gandvík nefnd var þá ny-
bygd þeirra sveita Nísaland þar lietu hiá
líder þesser heita.
Sveitenn flagda sier þá var so um láng-
ann tíma hermed sumer hálfrisar hermer
þañeñ Níma. A 3 Efter

Efter þad kom onnur þióð enn til nord-
ur landa húnvar ecke helldur góð med-
heidinn sid ad vanda.

Kiæner voru vid kólf og geir konnudu
vída grundu af Japheths sonum Segger
þeir sagt er komner mundu.

Allt sunnan úr Asia ókst á Sigluhynd-
um þad fólk var vænt og frídt ad siá enn
fiærre Trolla míndum.

Formenn þessa fólks voru tveir fiol-
kunnuger tiáder Odinn het og Alfur þeir
eru Kóngar báder.

Þá fiolda þessa fólksins jók, frá so
vída hellde Avstur ríke Alfur tók enn
Odinn Svíavellde.

Alfheima þá avstur frá olldinn kalla
náde frídare odru fólke ad siá fleſt á þessu
Láde.

Sagdur Odinn Svíþióð í sat um láng-
ar stunder og Landed Saxa líka þvi lag-
de allt sig under.

Lángt um fleire Landnáms þióð liet
þo Skatta Skráda Europa nam alla
lóð eigna sier til ráda.

Af Troiumonum Tirkia Lid til kom
Odins ríka bæde vid hann bundu grid
og bygdu Londinn líka. Allt

Allt þad pláts sem Odins var og hanns þínga Stefna Mildiug liet, og meingid þar Mannheima þad nefna.

Sambland mikid þióda þá med þessum giordist beimum þvi Risar kunnu konur ad fá med konst úr Mannaheimum.

Sumer þángad Syne og Born siálf viliuger giptu þvi hvortveggiu var heidnen giorn þo háttum nockud skiptu.

Lióðad hef eg um Landnám nú og lesed um norðurálfu enn ædstur þótte um ála frú Odinn Kóngur siálfur.

Kóngur á flester Konster var kiærn og fridur sínar fiolkinge yfer firda bar sem fie og leiptur rínar.

Vakte upp soddann villu ard vondur Fitons Ande ad á trúnadur á han vard einnenn þár i lande

Um þennann Kóngen þar skulu bid þvi í minne bogu ad han kemur ei mjog vid epter fylgiande Sogu.

Til Sogunnar nefne eg Sikling ein sá var af Risalande gofugur og til giædsku bein Godmundur heitande.

Hofdingskap sinn heyra liet heidna og spyria vída á Glæsisvollum heradid het sem hafde hann Stiórnan lída.

Furdu gamall Filker strýds fródar Sogurnar tyádu margan alder medal lyds Menn hans lifa nádu.

Her af trúdu heidins kins holldar so til bera ad í hans Ríke Odáins Akurenn munde vera.

Og þeir sem kæme þángad heim af Þorna grer og Sprunde sótt og elle af Seggium þeim savgdu ad hverfa munde.

Sonur Kongsins Havfundur het harla kiærn og vitur hann ríke stiórna Ræser liet enn ro med siálfur situr.

Arfe Riflúngs ollum var ad stórmálum qvaddur ef dómarar Kóngsins deildu þar enn Dogling fiærre staddur.

Ræsers son so rettvís var í ravn til allra húsa einginn madur þorde þar nie þurfte hans dóm ad riúfa.

Arngrím nefne eg einn þañ mañ enn til Sogunar snúe ramur ad afle reiknaz hann rise og biarga búe.

Eina

Eina mey er Alma het, úr heimunum manna nám i burt og náde í flet nefndann leggia Svanna.

Þaug áttu son sem opt hefur sked þó Omudu frænda ráde Heidgrimur og hálftrøll med heita barned náde.

Þetta barned þroska samt þótte úngt ad stíme eins og Jotna afled ramt í var þeim Hergríme.

I homrum stundum bistur bió hiá Bergrisunum stóru og monum líka medur þó morgum veitte klóru.

I Jotunheimum ein het Avgn af álfa spreinge víka þessa nam med galldra gogn þav gátu son og líka.

Hióninn kolludu hann' þá Grím hægt um ætt nafn breiter einn mann nefner Odar rím er Starkadur heiter.

Aladreingur avl nafn bar einginn fanst þar slíkur af þussum kominn þesse var og þeim ad ollu líkur.

Storvirks son var Starkadur sterkum Trolldóm vendur illsku fullur Odins búr átta hafde hendur.

Hergrím skórade hólmenn á hañ þá fyrstur manna þvi ádur nam

med Fiølking fá frá Starkade svanna.

Starkadur med sverdum senn synum fiórum vegur þá hittaz trilder heliar menn hverugur af sier dregur.

Hergrím felde holme á hardur í unda regnum Avgn á þeirra einvíg sá og sig lagde igegnum.

Starkadur þá øllum avd epter Hergrím varde son hanns tók og sídann bavd sier hiá fóstur í garde.

Ad Alfa Kóngum aftur vyk er eg fyrre skráda nitt vóru øllum nøfninn slík sem nádu þar ad ráda.

Alfur Kóngur er þar var átte dótter væna sem frídleik yfer fliódinn bar og furdu menta kiæna.

Het Alfhilldur hírleg snót á havfste var þad einu Døgling giorde Dysa blót med Dírre Falda reinu.

Þá Budlúngs dótter ad blóte geck og bavdst til horginn rióda hvarf í burtu þiliann þeck Þorns og Ægers glóda.

Starkadur fór i Fiølkings ham og fliódinu giorde ad ræna og heim til sín ytra nam þad áttu dóttur væna.

Bavg-

Bavggerdur sú brúdurenn hiet búen
Ellde Rynar Alfur Köngur illa liet ept-
er dóttur sína.

Hilmer giorde heita á Þór Hilldé
Gulls ad leita hann til Starkads heim
so fór og helid giorde ad veita.

Til Alfs Köngs fóru aptur þriú
ádur nefnd á freste Gerde Bavgs feck
Grímur nú og giordist her mann
meste.

Búftad Grímur brátt feck sier Bólmur
Eyenn heiter Ey Gríms Bólm þeim
Orfa Grer avk nafn þiódenn veiter.

Þád Grímur hiónenn gátu son Gulls
med nógu safne efnelegur og er þess von
ad hann líkist nafne.

Arngrímur sá epter het afanum lánga
sínum fyrer brióste fátt hann brenna
liet (sem birter i Søgunnar lynum).

Berserk mikinn búenn ad sier byrte
eg Arngrím verda geisa fram̃ med gria
mann her giorde flegir sverda.

Sídann bió í Bólm=ey hann blísnalega
leinge epter fodur sinn andadann
alner trú eg hann feinge.

Ept-

Æpter giörd mun alíkt su um hanns sonu tíl sagna enn eg verd her ut af nu med Arnar leitenn þagna.

# II. Riima.

Þó mig fyse ad breita um brag og bióda sliódum Siktid Arnar samt og ádur sie eg Minn verdur Hródur tiá- dur

Ei þarf sá vid Ana Rín ad arka um Hólma ef hønum verdur allt ad Málme í henne þó hann leinge fálme.

So fer mier um Sónar smíd þö sem- ia villde, þad mun þikia skírum skáldum eg skeimte smátt af hródrar, sálldum.

Enda mun her efne helgu ecke ad spilla þike Mier vel sem þad vill falla, þvi eg kann vid Mærder valla.

Hef eg til reint um heylagt mál í hródrar glitur enn ef sumer ecke betur ákta þad enn hegóma tetur.

Mier sinest betur siá út Rímur sum- um tidum helldur enn flapra hræsne medur heilagt ord sem kannske skedur.

Er þad sátt sem ecke nockud af þier læred so mun þad um Søgurnar vared þad sie ei Minna enn ecke pared. Ef

Ef fordum þokte frægdenn ſtundleg fordild vera ad oſs ſilge Eilíf Æra þad ættum vier af þeſſu læra.

Þacka ſkyldum þidlega vier í þánka líka ad eiguin koſt á epter ad ſækia ædre frægd enn Sløgenn Mækia.

Sæler eru þeir í ſinum davda Sigurenn fánga eg helld þá vel á hólmenn geinded heidur land og frelſe feinged.

Litt Mier hendtar lángann Mannſaung láta avkaz ef eg ſkal vid efned flækiaſt ſo á þad mætte nockud ſækiaſt.

Ef þad fyrra aa ad heita í Orde Rimna þá endadiſt hún ein fyrer framan um Arngrím Beſerk romu tamann.

Til ádur nefndra yfermanna ordinn kreike ſat þar Odénn ſvinnra líke ſem nú heiter Garda ríke.

Odenn ſonu átte ryka og æred marga Sigurlame ſaduing Borgum ſá var einn og talinn med horgum.

Sigurlama ſagt er Odinn ſette í ríke unnar bál ſo ad ſier tæke einnenn kunne ad rioda mæke.

Hann

Hann gipteſt dóttur Gilſa Kóngs í
gódu halde ſá var þó í Sviadellde Sik-
ling prîddur Rínar ellde.

Sigurlame ſon gat einn vid ſinne brú-
de ſá ſtiórnade ſîdar Láde Svafurlame
heita náde.

Sigurlame ſonur Odens ſviptiſt heill-
um fyrer Piaſſa jotne þad má ſpialla
Þeingill giorde i Druſtu falla.

Fodur ſîns þá fallid ſpurde Filkirs
Arſe Ræſers nafn tók rett med erfe Rí-
nar-bál og Likla Kerſe.

Til Díra veidar diarfur eitt ſinn
Dogling ſtillte Hilmer leinge hiort einn
ellte harla lángt frá Landa bellte.

Sîkling fyr ei ſóktiſt dyr, enn ad ſó-
lar falle kominn ſo lángt ad viſſe valla
veg hvad átte heim ad kalla.

Berg ſá nockurt hiá ſier hann til
hægre hlîdar hiá Dinus inne á Díra
láde dverga tvo hann lyta náde.

Sverde brá yfer Sudra báda ſenn ad
bragde utann Steins þá Odling vygde
og til þeirra rædu drygde.

Ad nafne frette nordra báda Niflung
kátur Durinn þeir og Dvalinn heita
dírum kunna ſmydum breita. Fíor

Fiorlavsnar. Þá Fylker bidia frostar báder hagasta veit sem Hródurenn ræder hverra dverga, úlfa fæder.

Hann leggur á þá med listum sverd til láta reida og edal gulle um giörd príða sem allra best þeir kynne ad smída.

Af hrannar lióma hiolltinn skal og handfang blika og í Járne öngvu saka ei helldur vid ride taka.

Þad hýte griót sem brigde i sniá og brinin væna med fetla príddum Fofnes Dúne sem firda ræner Hiálma túne.

Frosta beggia fiorlavsn þetta firdum tiáe so þeir bregde út af eye hann aptur kom á nefndum deige.

Sudrar feingu Sikling búed sverd med öllu hid besta vopn i branda sulle búed allt med ravda gulle

Þá Dvalinn stód í Dyrum Steins vid Dögling ræder um sverd þitt búed senn hid góda so skulu mín álog hlióda.

Vinne þad nýdings verkinn þriú þav vest eg heyrde þá madur rick-

er mætu sverde mannsbane i hvort siñ verde.

Lika af þessum loga tírs þinn leide bana sviptur ollum Siáfar funa so skal eg þier kúgun muna.

Doglíng giørde Derlings bál ad dvergnum reida i Folldar bein hlióp finnuren láda so fallde eggteinana báda.

Svafurlame sverd þad bar á sínum døgum ad Orustum og einvígum og ærid, morgum Járna stígum.

Tiedür Gramur tyrs liet bálid Tyrfing helta veittist tydum varge áta vopn þad besta heita láta.

Jotun Þiassa Josur med þvi járne fellde sinn fodur bana silker millde frækelega á holme hinn gillde.

Enn hanns dotter Ødling tók og átte sídan Silkegeidur su het Frydur sá var spracke vitur og blídur.

Þav áttu dóttur Eyvara het sá afbragds Svanne hún var Meyn hverre værne og hermed ødrum lista kiærne.

Nú skal taka nýtt til máls um nefnda bragna, Arngrím Berserk ádur í Sognum, er her tiád í mærdar gognum.

Ur Bolmey hellt og bardest vída bolverks nóte, honum var ecke hægt ad mæta, hilldar geck so opt til stræta.

Eitt sinn hellt med her og sína harda heima, og sókte á Ríke Svafurlama, sárlega giorde morgnum ama.

Attust þeir vid Orustu harda af ollum krapte, hermed líka hoggva skipte, hvor so aude til sín kipte.

Arngrímur hafde aftaks skiold og undra þúngann, jafnadann sterkum járna spongum, sem Jotnar plaga í stála þrongum.

Hilmer Berserks hugde ad snída hiarnar gliúfur, allann skiolldenn Arngríms klífur oma logen briniu rífur.

Arngrímur brá vid einka fast og aptur hoggur, hond af Kónge Hiorenn tiggur, so herians bál á Jordu liggur.

Arngrímur tók þá Tyrfing upp og til hans reider, briniu klýfur brióst og ydur enn brandurenn sock í vollenn nidur.



Fyllteſt

Fyllteſt Dvalins forna ſpá um Fylkirs Davdá, enn Kóngſins fiell þá eign og avdur, Arngríms til ſem fólk og havdur.

Arngrímur tók þá Eyfuru dóttur Ödlíngs fellda, og Berſerkurenn ſá briótur ſkialda, brúdkavp giørde til hennar hallda.

Biuggu ſídann Bólmey í, og byrdsga neitte, ſonu tólf þau ſaman áttu, ſóddann pilltar líka máttu.

Daufnudu aller Dreinger vel af Dryckium Módur, Angantír het elſte nidur, afa ſínum líkteſt vidur.

Hiorvardur og Hervardur þar heita næſter, Semingur og Bráme biſtur, Brián ſiotte lundar tviſtur.

Tíner, Reitner, Tind og Búa tel eg brædur, og Haddingar tveir hvørge gódur hravſter arfar ſinnar Módur.

Þeir unnu bádir eins mans verk af orku hinna, enn Angantír tveggia maña, travſtra brædra aſtravn ſanna.

Berſerks gang þeir brædur haufdu í búke aller Angantír bar heila haullu, hærra þeim med Drakons miaullu.

Í herfør sóktu hlírar þeir med haurku gilda, strags þegar á únga alldre, Odda hvorium framar í hialdre.

Vauktu hilde vída um heim á vidris brúde, vóru til Orku og árædis, umfram Berserk hvorn sem fædist.

Nafnfræga um Nordurlaund þá nefunda ad hole, i hvoriu lande sigur sæler, sumum þóttu ecke dæler.

Fødur þeirra vauldust vopn í vígra funde, er hafde teked á hvoriu lande, þá helldu marger óvinnande.

Tyrfing eignadest Angantír enn annar Hrotta, bestu sverd þau mæla mátte, Mistiltein hann Semingur átte.

Sókte Þráin sagdan brand af Seminge daudum, ágiæt holmsverd ytrer brædur, aller haufdu, enn hvor var skiædur,

Jóku vída Járna hríd í Jotna skape, optaz vóru einer á skipe, undann tólf þo marger hlype.

Fóru þo opt med fleire skip um Frón ad heria, margur ad þvi mátte spyria, hvort mundu snúa guste hyria.

Adur brædrum ordet hafde eins og glópum, sína menn þeir siálfer drápu, þá sig í færdu Fiolnes kápu.

Aullum hent var ecke hiá þeim eiga heima, fóru sier i flocke samann, slangs mikid var þeirra gaman.

Þá Bersèrks gangur i brædur kom, þeir beriaz tóku, steina vid og stórar eykur, stillteſt ecke þeirra leikur.

Med þeim gange Mennskur eingenn madur þá stillte, þier oskrudu þá sem ólmer gellter, eyru lavst edur vargar svellter.

Med ysergange avdur jókst þeim ofur legur, gulled vopnenn fundu fögur, frá þeim geingu stórar sögur.

A'sumrum brædur sóktu harda sverda ymu, vídt þá heria um veralldar geima, á vetrum kyrrer sátu heima.

**Brædrum þessum braugdèd er víd í Bookum vída, þar skal bragur þrotna Flioodum, þogn er heimskum best í lioodum.**

## III. Riima.

Havka

Havka Tirs þo harla vída hygge eg senda, í einum stad þad ætlar lenda.
Aungvann dropa Ása miadar eg má finna, hvad sem vilde her til vinna.
Hreifa skal því hrugnes leir og hersians Rosta, mier hvad þyker minna kosta.
Ecke er verdt ad æra sig vid Ordgnótt hinna, nie ad því leita er ei má finna.
Hvert menn stunda á heidur, gull, eda hringa tródu, þad er best sem gefst med gódu.
Helld eg ráð þó heims med frægd menn hygge ad vada, ad eingenn synde i siálfs sins skada.
Efned þad sem epter fer oss øllum siner, fyrer hrokann margur happe tiner.
Eg veit ei hvern ábata eg á því hefe þó sliódum meire Mannsaung gefe.
Ætla eg betra áheyranda Eyrun fylla, og Álfars dregg vid efned stilla.

**Bifurs feria brotnade þar i** bodnar stravme, ad Arngríms syner sátu i glavme.

I Bólmey eitt sinn var þad til i Berserks skóla, á einu qvollde um aptan Jóla.

Ad Borgar veniu og Seggia sid þeir saugnna leingia, heit ord flester hauulldar streingia.

Enn Hiorvardur á qvad þad hann eina hlyte, frægsta mey ad fegurd og vite.

Ingegerdur het Yngva dótter um sem tølum, Ødlings Svía ad Uppsaulum.

So madur kunne megt af úngre meiga hlióta, ellegar skyllde hann avngrar nióta.

Blugguſt sídann brædur tólf sem bók red inna, Yngva Kóng ad Uppsaulum finna.

Hravster geingu í haull fyrer Gram og hyrdmenn líka, dótter hans sat þar dávæn píka.

Hiorvardur sitt Erinded up nam einardt bera, og Millding bad úr málum skera.

Heitstreingíng hann hermer sína herra milldum, enn Sikling hugsar svared gilldum.

Veit

Veit hann fyrer sier vera brædur voda stóra, og kins ágiæta kirtla þóra.

Med Kónge voru kappar tveir sem kíss í onnum, af lángt báru odrum monnum.

Annar þeirra Hiálmar het hinn hugar stóre, fræknare hvorium fleina þóre.

Naddoddur hinn vidferle vid vopneñ tamur, annar het ad afle ramur.

Frækleik yfer firda bar so finst i Saugu, þó þad sie ei greint i þessare baugu.

Þá Hiálmar Berserks heyrde ord og hendte samann, Búdlungs stie fyrer bords ed framann.

Mællte hann herra minnest þier hvad mikinn sóma, auked hef eg á ydar blóma.

Var eg úr hillde besta gripe á Búdlúngs vallded, og Landvorn hef eg her líka halldid.

Helming ríkis hef eg adked herra ydar, og efnad landid opt til fridar.

Þvi bid eg ad þad oss giored þægt ad vilia, mier gipt sie helldur Gullhlads þilia.

Enn þeim Berserk opt sem giorer illsku hradar, um vort land sem annar stadar

 Vís

Vis er þótte vandäst mál þó vare seimur, senn hofdingium svara tveimur.

Um síder Gramur svarar ad skyllde siálf hin lióſa, Milldings dótter mann sier kióſa.

Mællte snót, ef Millding vill oss manne gipta, og eige eg med þeim Erindum skipta.

Advitad er eg tek helldur ad hof-dinga, góð kunnugann geimer hrínga.

Enn þann Berserk ókunnann úr aud-rum londum, sem fárlegur líst oss fallda strondum.

Hiorvardur þá heyrde ordenn hírrar snótar, svarar til med sagner fliótar.

Hólmgaungu þier Hiálmar býd fyr-er híra Meyu, á settum tíma Sáms í eyu.

Hvers mans níding helld eg þig ef hírann spräcka, áttu fyrr enn einvíg skacka.

Hiálmar mællte heyre aller hvad þú telur, eckert mig til einvigs dvelur.

A qvedinn var af þeim glogt i orda Ríme, hólmstefnunnar, hentur tíme.

Garpar

Garpar hravster grimdar heitum ged-
stællen og þá skildu ad so mælltu.
Brædúr komu í Bólm-ey heim til
bygda sinna, og fodur sínum fretter
inna.
Hólmstefnunne hermdu frá og hverier
være, sem brædur vid ad beriast fære.
Fader þeirra frettum þessum fátt red
taka, hvorge qvad hann Hiálmars maka.
Og haunum fylger einnenn líka ann-
ar kappe, sem nefnt er hinum nærre
stappe.
Ottaz hef eg alldrei meir um ydar
ferder, enn Sáms-Eyar um sóknar
gerder.
Eru þeir snarer eins og valer ort á
fluge, med gnístings afle og grimma huge.
Liette tale limur Jotna lidu tímar,
ad hólmstefnunne hródurenn rímar.
Berserkurenn brædur ut á bravter
leider, herklæde bestu hann þeim greider.
Qvad í þaurf nú koma munde kífs
ad messum, bestu vopn í bardaga þessum.
Þvi þier beriest þá nú vid sem þora
ad bana, og frægdar mestu fullhugana.

Mællte fyrer þeim mundaugs vel sjá málma reider, enn brædur sneru í burt á leider.

Biartmar nefne eg burdugann Jall og borinn til láda, Aldeigu borg sá átte ad ráda.

Orîkare enn adrer Kóngar ei var þesse, og óttalavs þó orusin hvesse.

Þar áttu Fridland Arngríms syner orku sniaIler, viner Jalls þeir vóru aller.

Þá frette Jall þeir fóru þar sem fleigdu spióte, veitslu stofnar virdum móte.

Atte Biartmar eina dótter einka ríka, bæde væna og vaxna líka.

Ad þeirre veitslu þad til laugdu þorna niótar, ad Anganntír bad úngrar snótar.

Þetta ad ráde þad var giort ad þocka qvende, strags þá giptest stála bender.

Svafa het hin sagda snót enn sćigia bære, avkenn ad nýu veitslann være.

Hiónenn vóru í hvílu leidd ad hendsum máta, Anganntír og avd þoll káta.

Veitslann þesse vel fór fram og vírd-
ing lánud, hófed stod í hálfann mánud.
Búaz sídann brædur giordu í burtu
þadann, og druckn fast um Dagverd
gladann.
Angantír til orda tók enn adrer
þeigia, dravm sinn Jarle dróst ad seigia.
Síndest mier þad sem vier værum Sáms
á Eyu, brædur tólf á Vifurs meyu.
Fundum vier þar fugla marga frekadist
gaman, og þá drápum alla samann.
Epter þad vier annann veg á eyuna
snerum, eg þóttist mæta þá ókerum.
Erner tveir þá oss í móte óku fluge,
geiselega med grimma huge.
Eg þá snere ødrum mót med eingvar
náder, vid settust nidur blóduger báder.
Enn annar móte mínum brædrum mátt
nam herda, hann efre þótte mier aullum
verda.
Svarar Jallen soddann dravm þarf
síst ad ráda, eg ætla hann horfe oss ei
til náda.
Af gange þad ita ríkra ei mun fiær-
re, þad ætla eg stappe ydur nærre.

Svaurn-

Svaurudu hiner sá skal alldrei siást á huge, ad Berserkina bile huge.

Ansar Jallenn allar kempur orku snillar, fara þegar feigdinn kallar.

Þannen liktar þeirra tale þegn vid gladan, brædur sueru burtu þadann.

Svafa epter sát med Jalle seliann spiallda, enn Sáms til Eyar segger hallda.

Ravdkembinga ræfils hind sem reckum þiente, i Munar voge med þá lente.

Þá eyna brædur upp á komu ógna strangur brast i alla Berserks gangur.

Vid skogenn brutust skatnar þá ad skrádum vanda, ohóflegir ullar branda.

Hinumeigenn hólma Sáms hann Hiálmar lendte, í Una vogum asl sem þiente.

Oddur og Hiálmar á eyuna geingu epter ad vona, hvort ecke sæu til Arngríms sona.

Berserkerner bísnum medur burt af hædum, geingu tólf í Grímners klædum.

Hiálmars skip þeir sáu sen og sídann þektu, og fram til sióar ferdum hncktu.

Hiálm=

Hiálmars skip vóru herleg tvo og hietu Askar, búenn vel med kempar kaskar.

Hundrad vóru á hvorium Aske holld-ar suialler, vopnad er til víga aller.

Arngríms syner aller gánga út á skeider, med Berserks gáng af bolenu reider.

Olmer ser á Asken hvorn þá itar geingu, hiner ei stadist her vid feingu.

Med odru borde ódu fram enn apt-ur hinu, í víkings skape valla linu.

Eingenn villde innann bords þar und-ann flýa, helldur kanna hel for nýa.

I sínu rúme sierhvor fiell vid sók-ner branda, mannleg kind ei mátte standa.

Manns barn hvort þar morded sver-da mátte fanga, epter þad á Eyuna ganga.

Hiorvadur þá hóf so tal vid hópenn líða, elle glop á Arngrím stríða.

Oss hann sagde Oddur og Hiálm-ar einer munde fræknaster á folld og funde.

Enn eg sá nú aungvann duga od-rum framar, hreyste kempur rómu ramar.

Ang-

Anganntír qvad ecke skylde um þad saka, þó vær ei finnum vora maka.

Máske enn þeir miklu kappar mála trauder, Oddur og Hiálmar ei sieu badder.

Inna skál nú Oddur og Hiálmar upp á hædum, geingu tveir í grimners klædum.

Siá þeir nú hvad segger maunnum sínum giordu, og leidum snúa ad laxa Jaurdu.

Oddur qvad mier alldre sinde óma bedur; sianda slíka fólke medur.

Mællte Hiálmar mun nu horfenn mentenn lista, í aptan munum vid Odiñ gista.

Alldrei talade hann ædru fyr i atfor navda, morgum bregdur miøg í davda.

Mællte Oddur mote þvi í mála svifum, þeir munu deya þar vid lifum.

Vid hvoria villtu helldur beriaz hersjans vina, Angantír eda alla hina.

Hiálmar svarar hvort sem þiker hættu meira, ad þeim skal eg orustu keyra.

Þá af rædur þú hid verra í þravtum eriast, vid Angañtír ef atlar beriaz,

Af

Af því hann hefur eitrad sverdid of bítande, þad má heita i hende fiande.

Birte Hiálmar brimann mín so brøndum hepte, ad alldre sár eg i henne hrepte.

Skirtu mína skrafade Oddur skalt her líta, ad eckert Járn má á hana bíta.

Kóng boreun sig qvad hann Hiálmar kiørenn til láda, á eg því fyrer ockur ad ráda.

Villd hans Hiálmars vard ad standa víst i þessu, þeir binggust so til branda messu.

Geistust brædur gaurpum ad med grimleik snialler, med brugnum sverdum blóduger aller.

**Hiner spenna hlifar fast med herians tundur, hnikars baatur hrockur i sundur.**

# IV. Riima.

Þó siafar funa seliu lag, sende eg hárs af stavpe, þad mig grunar þennann brag, þeige dirt hún kavpe.

Líkar nú ef liliann gulls, leggur þøgn á medann, vilda eg bera veigar ulls, vidres fundenn tiedann.

Sónar qver af sinnu mar, sendest gullads gefne, viliann er ad virda þar, sem vantar smidenn efne.

Krumners leir eg helldur víl, heidurs fólke þylia, enn þar heyre adrer til, allt sem hæda vilia.

Adur þótte afbragd mest, optaz heidnum þiódum, ad fordaz sátt enn beriast best, og búast vopnum gódum.

Stutt þó være stundleg frægd, stá þótte til bóta, su oss bære Sigurs Nægd, er sídast villdum hlióta.

Þá veralldar brester álit á, undrast fólk i svíma, hann ef mesta hepne þá, hlyte einhvørn tíma.

Þvi ad hygge þiódenn flest, þar og eckert spara, ad þar byggest upp á mest, sem ætte leingst ad vara.

Mannsaung akt eg minna gaf, enn mæla um søguna, tæke valla er sagt mier veite af, vid þó søguna flæke.

Adur feingur oma bid, ætte þar hinn flióte, ad briniad geingur Berserks lid, braugnum tveimur móte.

Þeige

Þeige liner vid Þundar kólf, Þegar ad villdu strída, sem Arngríms syner adrer tólf, ecke fundust vída.

Yliar skóku um Eyar veg, ærstum hvor var vendur, grimlega tóku ad grenia mieg, og geibludu skialldar rendur.

Þá Hiálmar sá og hinn Þar med, hóp-urenn brædra strángur, itum Þá sem ast var lied, af fór Berserks gángur.

Navmlega sátter af navda ard, nál-gudust klædder stále, af qvedium sátt med kauppum vard, Þeir komu saman ad máke.

Einn med berum ordum tier, Ang-antír eg seige, fyrdar eru fundner her, fyrst enn skyllder eige.

Nú skulu aungver itar her, adra vop-num ræna, Þó ad strengum heliar hver, hnecke á folldu græna.

Þó vístad dravgum verde og leir, sem vegast í Þessu kífe, verpe havg um hina Þeir, sem hallda sínu lífe.

Hiálmar ræder um hollda val, sem her skal ondu svipta, vid ellefu brædur Oddur skal, eiga hoggum skipta.

Anganntír og Hiálmar hast, hausdu sámann ad gánga, vöx þá gnír enn vedrid hvast, vidris blies hid stránga.

Sverdum ræda senn á lopt, vid sóknar einvíg retta, hoggva bæde hart og opt, hiner sáu á þetta.

Hvorge spárde hildar stofn, hvor vid römu kunne, blásturen vard sem brinne ofn, úr beggia þeirra munne.

Þeir giordu af heipt og grimdar mód, sem gyrnteft haundenn kaska, líkt sem steiptist stein búks blód, enn stundum folær sem aska.

Hárs nam bedia hrockva vid, til hniánna báder ódu, havdred stedia enn slúde frid, færdu i lopted módu.

Greniade hior vid gylltann hiálm, gníste stál i raundum, ottu berum unda málm, ellduren savk úr braundum.

Þá samann bar hin breidu stál, bresta tók i hríngum, líkaz var sem logande bál, landed skalf í kríngum.

Hrídina tók med hropta skar, hvor sem troll ad mætte, i fiaullum tók so furda var, siærre mennskum hætte.

Reindu stýr á Rognes frú, rómu tók ad þyngia, alldrei fyr þeir fundu enn nú, fullann sinn iafningia.

Ur havka ládum ymsum ód, óma bál-ed væna, rifnade á bádum briniañ gód, enn blædde á folldu græna.

Egginn blá ad ymsum snír, atadest blóde havdur, og nú siá má Anganntír, ecke er hann Hiálmar davdur.

Annoterad einvíg þad, er i saugum vída, ad fáa bere fundum ad, fræknare vopna hrída.

Um elle stund red Oddur tiá, sunn-ur vopnenn fegre, eingenn munde seggia siá, nie sókneña hermannlegre.

Leinge feck ad líta á þad, lídurenn rómu skiædur, Oddur geck i annañ stad, og ádur nefnder brædur.

Frá eg Oddur fullhuga vid, fyrer giorde ad mæla, med helstáls-brodde her-mans sid, hafed enn ecke þræla.

Orustu vid mig einn í senn, eige hiorfa runne, med hreiste síd nema hug-urenn, haullda bila kunne.

Trolla menne tauludu iá, tamer í rómu listum, alldrei renne oss ædra á, enn þótt helid gistum.

 Hior-

Hiorvard fyrstur fram þá ód, fanst hanns valla nóte, enn Oddur þyrstur í Berserks blód, bar haunum vopn á móte.

Oddur hafde ágiætt sverd, eins beit járn og klæde, þesser vafder gylltre gerd, grimdar hvestu bræde.

Vopna hreggia vox af mátt, vidris lúdist felldur, sungu beggia sverdinn hátt, syndrade úr eggium elldur.

Eggia fáred ecke stód, ádur fyrre leinge, helldurenn sár og Berserks blód, brandenn litad feinge.

Hiorvardur so hillde lavk, hólms í stódsta sinne, egg bardur í einu stravk, ofann i heliar mynne.

Brædur sáu á Berserk fall, þá blód-ugur datt á grundu, orgudu þá so i þeim svall, og orskraniega drundu.

Aller hielldu um óma bál, af minda-der ad skoda, gnogudu skiolld enn gny-du stál, og gavs út úr þeim fróda.

Hervardur þá hrottan blá, hardlega giorde ad reida, Oddur sparde ecke þá, aunnur hoggenn greida.

Eins

Eins ! þad geck og ádur fyr, Oddur Berserk fellde, under feck i stála stir, steiptist davdur ad vellde.

Vid atvik þetta yskrade sút, illsku trylldum maunnum, túngur retta aller út, og urgudu samann taunnum.

Af heliar erin havdred bravt, hvør med afle grídar, beliudu ver enn blótad navt, so bullde i haumrum vída.

A Seming brestur sáttar bann, sást af reide æstur, af ellefu mestur einn var hann, Angauntíre næstur.

Odde gaf hann avngva ró, orgade sverd á hiálmum, stále af þar elldur fló, so unda qvad í málmum.

Semingur var i sverda róg, so ólmur ad beriast, ærdest þar so Oddúr nóg, átte haunum ad veriaz.

Harda áttu hilldar þrá, vid hliómeñ vopna stíga, ongver máttu á mille siá, hvør munde fyrre hníga.

Hvørge smeikur hiuggu opt, hvøriuin var búenn skade, gavs af reikur og geck i lopt, sem gufa úr heitu bade.

Hlífar feingu haulldar þeir, med hvaussum brøndum skera, sárenn

 geing=

géingu á Seming meir, enn sá Odds
skirtu bera.

Sára styr hann Semingur bar, sig
gaf lítt vid skeinum, hætte ei fyr enn
hoggved var holldsed allt frá beinum.

O blódugann á Odde stad, ei sá
þátt nie nidur, ecke gódann ófagnad,
eiga þótteſt vidur.

Berserks var þá blóded allt, burt úr
ædum runned, hnie so þar á havdred
kallt, (happa verk var unned.)

Hvor ad strøngum hilldar beck, hin-
na geingu sídar, hvílldina aungva Odd-
ur feck, í efne Járna hrídar.

Enn hvor hugde Odd i tvo, ørva
høggva blecke, skyrtann dugde seggnum
só, sverdinn bita hann ecke.

Leingur spialla leiknum frá, litel navd-
syn rædur, fellde alla Oddur þá, ellefu
á hólme brædur.

Oddur hródur af þvi bar, æfelánga
sídann, sveittur og módur siálfur var,
vid sóknar leikenn strídan.

Oddur snír þá aptur snart, ad þeim
stad á stundu, sem Angannt´r og Hiál-
mar hart hádu strid um grundu.

Ang-

Anganntír sem ádur les, af bav mesi-
skum maunnum, lá nú rir og blóds
blies, blár og gniste taunnum.

Hiálmar þá vid þufu sat, þravtar
folur af sárum, Oddur siá nú svarad
gat, þú sveimar í feigdar bárum.

Sextan eru sár mier gerd, svarade
Hiálmar Odde, eggenn ber i eytre herd,
inn vid hiartad lodde.

Hiálmur er bæde hoggvinn minn,
her med briniann góda, hleipur mæde i
hiartad inn, heliar til ad bióda.

Fimtáu borger fordum her, frídar
átte á ládum, med orma torger unde
mier, alldre þó í nádum.

Því skal hyggia af hírre frú, og hró-
sa ravdum bavge, verd eg liggia látin
nú, lífs andvana i havge.

Alldrei lífs mig aptur sier, Ingebiorg
mín kiæra, hríngenn vífs af hende mier,
henne skaltu færa.

Fíngra þvita folldinn mig, frídust
sídaz leidde, á Agnars sit so elskulig,
eins og huguvenn beidde.

Góts af avde, gull og mey, gledia
mig nú eige, feigd og davde i sálu þey,
finn eg á þessum deige.

Hrafn og Erner avstan ad, um Sámsheide fliúga, bráder kernar beint í stad, af blóde mínu siúga.

Hiálmar sidann hravstur do, hermans þioda iafne, falle obida slavstur þo, fialars i lioda safne.

## V. Riima.

Af kønnum hylia kialars slíngum kort mun veita, skylde eg vilia Skothendíngum skrifudum breita.

Havka tírs þó hygge leingur holldum senda, verdur rír sá veide feingur vill so lenda.

Lauka þylium lióda badme læst eg búa, enn øngvar vilia indis fadme ad mier snúa.

Hvi skal eige þar vid hrelldur þiást í stíme, sudra fleye svipta helldur ad saugunnar Rime.

Þagnade rír og rødu snavdur reindust málmar, þar Angauntír var útaf daudur og einnenn Hiálmar.

Under eins þar út af hrutu oruzku þiáder, riódar fleins so falla hlutu fræger báder. Um

Um þá nótt þar Oddur vär sá æfe skardar, ad morgne drótt hann davda bar til dysiu jardar.

Sá feck mædu er sende kólf og sagner teigde, alla brædur Oddur tólf á eynne heigde.

Eykur ráda eyar búar Odds med tale, grióte hlada og giørda trúa greinda sale.

Orkan lánud Odde var vid agda smidiu, heilan mánud hann geck þar ad havga ydiu.

Dimt í skiædre dravga høll var daga og nætur, vopn og klæde ita øll þar Oddur lætur.

Ad Upsaulum flutte Oddur Hiálmar andar vana, til Hilmers dóttur enn sorgar sálmar sóktu á hana.

Avngva bót nie yndis kior hún átte á torgum, liet þar snótenn lagleg fior af leidum sorgum.

Af brendum bavge búen og mett sem byrter qvæde, ad einum havge inn vóru sett og eru þar bæde.

Um Odd þó meige ása lagar yrkia feingur, þó tier eigi þesse saga af þegni leingur.

Hródur teiger, hver sem lyster i hiriar vinde, Annall seiger ad Oddur fyrstur Island finde.

Kenning dreifer Qváfers vída kolnudu blóde, og á þvi hreifer Svafa sidann sást med jóde.

Bónda síns þá fregnar fall hún fór ad gráta, enn briggiu líns bad Biartmar Jall af bølinu láta.

Svøfu beiger sorgenn fort i sinnu Ríme, fædde meybarn frídt og stórt þá fram̃ leid tíme.

Miøg so hræddust mála bupp i minne kargur, ad hún fæddist ecke upp þar um bad margur.

Til heliar palla af húsa glap þeir hvauttu ferda, kvádu valla qvenna skap í kynne verda.

Biartmar skodar barn og vonar betur vegne, ætte eg ad stoda Arngrims sonu epter megne.

Upp á havdur ef hún næríst athuge viner, med aullu davder ecke være Arngrims syner.

Þó menia gerde marger hrædist málma þórar, enn má verda af henne fædist ætter stórar.

Vísed liet hann vatne avsa valldsins neitte, HERVÖR het hin lágiædsislavsa er landed skreitte.

Til þroska fulls var þorna hlíd á þrótter allar, stravnden gulls var stór og fríd enn sterk sem kallar.

Morg var hælne i miklu verde er mátte skarta, um myrkfælne alldrei gerde avd þoll qvarta.

Med savm eda toga sialldann ser sem silke eikur, vid skiaulld og boga hiálm og hiør var hennar leikur.

Valla þotte vísed stillt þó vid gang herde, færra gott enn fleira íllt ad sliódsed gerde.

Þá hyrte Jarlen hana um þad hún hlióp á skóga, bragna kallar i Berserksstad til branda róga.

Stiptade skála stúlkann úng med staurfsum travdum, bísna mála bætte i púng af braugnum davdum.

Marga drap hún menn og sókte á merkur vída, stór i skape þorngrund þókte þeim ed lída.

Fyrst ei vill hætta lagleg liett ad lóga á kalle, um brúde þvætta og byrta þetta

Biartmar Jalle Biart-

Biartmar hlíddi bragna róg um brú-
de svinna, marga hídde menn á skóg
þá mengrund finna.

Herenn sló þá hríng um svanna og
henne nádu, fyrer henne dó þá marg-
ur manna meiddur ádur.

Haundum tekinn heim so fór úr hrot-
ta remmu, og var rekinn straundgulls
stór i sterka skemmu.

Lagleg sirkde liette Svafa leiser hró-
dur, sat um hríd med sogdum afa og
sinne módur.

J sinnis ferdum sást med kiælum sem
eg inne, íllt hún gerde onnúng þrælum
einu sinne.

Giorde mæla fridsemd siærre framt
onúnga, ad hún þræla ættar være íll-
giorn túnga.

Omudu strídar orda gnótter avdar
freyu, svína hyrdis saugdu dótter svin-
na meyu.

Hervör reiddist hálfu meira hermdu
spialle, og soddann beiddest betur heyra
af Biartmar Jalle.

Loged qvad þad lavsa tír ad liósre
meyu, þinn talenn fader travdt og skír
med tárenn freyu. Bender

Bender yrs var bardaginn falur bfe óſkerdre, Anganftr í Sámsey ſalur ſunnan verdre.

Hermannleg þá hrund orms fitia hialar ſvinna, fyſir mig nú fóſtre ad vitia framlidinna.

Frændur travda í fornum ſal mig fyſer beiga, þeirra avd eg eignaz ſkal edur annars deya.

Skarte búenn ſkiótlega vil nú ſkera mier treyu, diarflega ſnúa dravga til ad dráp Sáms eyu.

Móder kunna tallde á travda trúrra ráda, bad ei nunna dravga davda diarft ónáda.

Búning vona balldur fleins mier bíté i fære, ſanngreind kona og ſonur eins og ſiálfur være.

**Hervor** ſídann hvarfur burt med hilldar ſkrúda, feingu líder fyrſt ei ſpurt um flióded prúda.

Hún ſo var i hugar leit ad havga þíngum, kom ſier þar í ſeggia ſveit hiá Sióvíkingum.

HIORVARD ſig þá nefnde nipten nábóls linna, forráds ſtig hún feck i ſkipteun fielaga ſinna. Hiör=

Hiörvard þesse heriade vída á hreggvid skiallda, og súda esse sídann bldur ad Sams ey hallda.

Sem þar láu vid siáfar flióted svartra boda, Hiörvard sá vill havga grióted hólmans troda.

Latte drótt sier leider gera lands til álfa, qvádu fliótt þar fyrer vera fiendur siálfa.

A deigenum vada i virda krans þar verra lætur, enn annar stadar lóder lands um lángar nætur.

Maunnum hætter meidsled stránga má af verda, þeir meinvætter þarum gænga þravter herda.

Þó hermder lider hefde þar þann hólma lastad, enn um sider ackerum var vid eyuna kastad.

Hiörvardur jók þá hinum qvldsan hans bldande, bát sier tók og sette sídann siálf ad lande.

Mæler letur i Munarvoge men þoll lendte, um sólar setur enn sverd og boge seimgrund þiente.

A landid rann og lítt þá eymde lands ófrídur, hitte einn mann sem hiordina geimde hagann vidur. Spur-

Spurde fretta fleina meid
so frægd ei þrotne, nu skal detta
nordra skeidinn nidur ad botne.

# VI. Riima.

Hnikars svangur fálkenn flo, feck ei
smacka Qváſers blód, ferda strangur
fyſeſt þó, ad finna ſkothendt gagara
lióð.

Hvítings bilgia er bitte hár, burtu
langt er frá mier ſett, ad ſkulu ſilgiaz
allar þriár, þó eingenn þeirra ſare rett.

Feniu guſtur freiſta vil, ad ſeike
þvi ſem heite lióð, ef þar hluſtar ein-
hvør til, orma dúnſins folldenn góð.

Sónar gillde ſemia þeir, ſem ad ſein-
gu ſkállda ſvip, enn eg villde Arnar
leir, eiga mier fyrer dverga ſkip.

Þó mier lieteſt loſa bót, línſpøng ſo
ad gete kiætt, ætla eg gete ecke hót,
ofann á þetta neinu bætt.

Hvør má vita hvad þó má, blidaſt
til af munne mier, fyrer gódu álite ef
gangaz á, og gullſkord tæke nærre ſier.

Einnen þiker muna mieg, Mengrund
hverre kvede ſkal, máls atvike á marg-
ann veg, mætte breita um lióda tal.

Hleid-

Zleidóls barma blusta vind, hef eg til Søgunar Manniśøng frá, bods um verma busta hind, blídar blíde snóter á.

Fiell þar Odur Berserks bur, bióst ad kauna dravga síd, á hólma lód þá Hiorvardur, hyrder fiárens ræd-de vid.

Her næst frá eg húma tók, heyrdust dunur um eyna mieg, fiármann þá so felmtur jók, fyste hlavpa heim á veg.

Hiorvards volldenn hamla þá, hyr-derenn greiner landsins síd, úte um qvolld á eyunne má, einginn hafa nætur frid.

Þegar sól er setst vid fiaull, syndrar eysa í lopted blá, dravga bólenn opnast aull, elldur og reikur gýs upp þá.

Hinn qvad brender bavge seim, brug-gar maunnum hrædslu slír, hvar eru kender havgar þeim, Hiorvarde og Ang-anntír.

Um sauguna þá nú þike mier, þeyia best og forum heim tveir, heimskur er sá til havga fer, hann kemur alldrei aptur meir.

Hiors

Hiörvard svarar hef eg eitt men, hygg ad bióda þier til þess, til havga ad fara slótt í gen, so fáum ad heyra dumbúngs vess.

Hinn i gen þar mællte á mót, mogulegt ei til havga er, brenner sen sem folld og griót, far nú helldur heim med mier.

Hiörvard ansar her til nei, ad hrædast neinar glæringar, látum stansa liótt ei, nie letia ockar hræringar.

Savda rekur svarade þá, sie eg nú mannenn vitlavsann, hlavpa tekur hart sem má, Hervor sá ei aptur hann.

Fliódet tvista ferdast þar, fram til havga beinan veg, eitt til lista avdgrund har, alldrei var hún skreffingsleg.

Elldinn fliód ei óttaz keik, nie ogna dunur dravganna, báled ód sem blavtann reik, Berserkia til havganna.

Mátte ei fretta felmtur þad, fram ad stædsta havgnum snír, vidur þetta vísid qvad, vaknadu nú Anganntir.

Hervor vekur hnígenn þig, hún er yckar Svosu iód, orustu frekur af greid mig, um arfenn þann sem til eg stód.

Góda sverded gef þú mier, grafed i havg og hendt vid strid, sem ad gerdu sudrarner, Svafurlama fordum tíd.

Hiorvardur og Hervard þig, Hrana og einnen Anganntír, og Arngríms búr hvøru einn fyrer sig, uppvek eg sem nær re býr.

Vidar rótum under enn, alla vek eg brædur tólf, vered á fótum vaſker meñ, vaner ad rióda unda kólf.

Myrkra viner meingiarner, ad mollð eru þier so ordner nú, og Arngríms syner alfarner, eingenn svarar menia brú.

Illa quelia eytur ver, iñann risia og vesta bál, nema selie sverded mier, samed ravda Jotna mál.

Til virda skiædra vil eg ei, víssins áll her ordinn tiá, hvørs eins brædra hárs á mey, havgur tók ad opnast þá.

Inn i havgum ófrínlegt, allt ad siá sem logande var, gavs af dravgum glundred frekt, get eg sier fáer une þar.

Anganntír þá andsvør tier, einka dótter þig eg kenn, sidur nír med flióde fer, þig fýser ad vekia upp davda menn.

Eckert hóf nú er á þier, aurvita med nætur stiá, mig ei gróf her minn fader, máttu þvi ecke Tirfing ná.

Hervor ansar heilann þig, i havge lifs so tale þier, alla staufar á þvi mig, ad arfsins villtu synia mier.

Aptur svarar avd þoll vid, ef þú tryder svirfingur, allt Hervarar ættar lid, um spiller sá Tirfingur.

Son þinn giallda sídar má, sóknar Tírfings ber eg á grun, roduls tiallde Ræser sá, ríkstur under, aleñ mun.

Má til falla mein slísa, miog af Tyrfing Kónge þeim, hann munu kalla heid risa, hetiur príddar brendum seim.

Svarar frú eg syrge ei, sídare deilur arfa mín, af hende nú gef hoskre mey, Hiálmars bana úr eigu þín.

Hiálmars bane herdum mín, hulenn ellde under er, mun ei vane i mundum sín, mey bere nockur þennan hier.

A hrotta slíkum eytur er, eggium bádum logande í, eingenn píka ætle sier, óma bále ad vallda því.

Kallar lídur mærenn menst, muntu ei i Jómfrúrsess, miklu sídur kiæran qvenst, qvarnar býts ef leitar þess.

Mennskur kiörenn madur fyr, úr mol-dar heime bittu mier, þennan hior í siála styr, steiptu hann gulle dvergar-ner.

Ur valgavts binge ek vill ei fá, vid-ris bál í hendur mier, eg of þýnge yd-ur þá, so alldrei kyrrer ligge þier.

Mengrund hast ad myrkra ver, mög-lad feck so langa stund, út var kastad Hvaussum hier, Hervarar í greipar mund.

Vel þú giörder vid mig nú, vikings nidur sagde sliód, betra sverded bitter frú, enn Búdlungs allri Noregs lód.

Far þú dótter frá mier vel, sliótt af avde gef eg þier, ast og þrottinn unda þiel, eirnveigen tólf manna sier.

Hlióttu slestann happa stig, her med sigur i vopna stir, og allt hid besta ec epter sig, Arngríms syner leifdu fyr.

Avngvann feile ydur af mier, aller í havge hárs á frú, brædur heiler bue þier, í burtu skiokta mun eg nú.

Hervor snillenn hermde frá, hoskre sidaun villdis þiód, heima í mille þött-ist þá, er þorngrund frida båled ód.

Ein

Ein so skyllde andada vid, ofann til strandar Hervor sakr, valla þyllde vík-ings lid, villu dunnur og burtu flýr.

Hrædst þeir hausdu hardann gný, her med skruggur ellde af, ecke taufdu upp frá því, á burt struku lángt í haf.

Avds þá bróder byrtu gaf, burt sá Hervor horsid skip, brá þá flióde i brún-er af, bleide manna hrædslu svip.

Henne geck med hreiste kurt, Hervor dvalldist Samey í, þar til feck sier far á burt, ferdaz vída enn á ný.

Hennar fyrst er ferdin laung, frá só greiner ymu bér, þar til giste God múnd Kóng, á Glæsisvaullum nefndañ fyr.

Het hún þá enn Hiorvardur, sem hreyste kempa í vígra jel, og var þá af Ødlings bur, einkanlega tekenn vel.

**Mærd oofaugur mæeist her, mun litt backa veiga Norn, fiær-re er baugur faeist af mier, fyrr enn eg smacka Toobaks korn.**

# VII. Rijma.

